# Forordning

(snúin á Íslensku)

sem

stadfestir og verndar

# Landseta á Íslandi

í þeirra

## löglegum ábúdar-rétti

á

þeim Jördum, sem þeim bygdar eru.

Fridreksbergs Sloti þann 22. dag Julii-mánadar 1791.



Kaupmannahøfn,

Prentat af Directeur P. M. Høpffner, Hans Konungl. Hátignar, samt Háskólans fyrsta Prentara.

Ver Christian enn Siøundi, af Guds miskunn Danmerkur, Norvegs, Vinda og Gauta Konúngr, Hertogi i Slesvík, Holtsetú, Stórmœri, Péttmerski og Aldinborg; giorum ollum vitanlegt: At med því þat er framborit fyrir oß, at Landsdrottnar á vorú landi Íslandi, jafnvel þótt þeir siálfir séu ecki Bólfestulausir, leyfa ser þó optlega, at útbyggia Landsetum sínum af þeirra ábýlis-jordum, þvertámóti þeim Byggíngar-Brefum, sem þeir siálfir hafa útgefit, og líka ámóti Norskú Laga 3 Bókar 14 Kap. 10 Artikula; Sømuleidis er oß borit, at þeir, sem hafa nýlega keypt þvílíkar á leigu bygdar jardir, þykiaz i sama máta, med yfirvarpi stadfestulausra Húsbœnda, eiga rétt til þes at útbyggia Landsetunum, jafnvel þótt þat ármœli edr Fardagar, sem áqvednir eru i Byggíngar-Brefinu, seu eigi umlidnir, byggiandi þat á grundvelli rángrar útþýdíngar fyrr-nefndra Laga 3 Bókar 13 Kap. 1 Artik.; Þá fyrir þær sakir krefz Réttvísin af Oß, at Ver reisum skordur vid þessari vanbrúkun; Í þvi tilliti vilium Vér þeßvegna, samqvæmt med þeirri útþýdíngu, sem giord er yfir ádr-táldar Laga-greinir, i Forordníngunnni fyrir Vort ríki Norveg, þann 18 dag Octobris-mánadar 1780, þá vilium Vér allramildilegast skipat hafa, (og hérmed skipum) þá Reglu á Ís-landi, at þat, sem Norsku Laga 3 Bókar 13 Kapit. 1 Artikuli áqvedr, nefnilega: sá Landsdrottinn, sem er bólfestu- edr ábýlis-laus me-gi útbyggia Landsetanum af þeirri jørd, sem honum er bygd, þegar Landsdrottinn vill siálfr búa á henni; þá skal þat einúngis skiliá um þann Landsdrottinn, sem siálfr hefir bygt Landsetanum jordina, ecki ná til nockurs annars, er sídan kynni at hafa keypt hana; en þessi sídar-nefndi Landsdrottinn, þótt hañ kynni at vera stadfestu-

laus,

laus, þá skal hann óbrigdanlega halda Landsetanum alla þá Byggingar skilmála, sem hinn fyrri land-eigandi hefir samit. Endeliga er sá Vor alvarligr vilie, at Landsetarnir á voru landi Islandi skuli kroptuglega vidhaldaz og verndaz i þeim ábúdar-rétti, sem þeim tilheyrir eptir Norsku Laga 3 Bókar 13 Kapit. 10 Artikula. Hvareptir Hlutadeigendr eiga allraskuldusamlegast at breyta. Utgefit á voru Sloti Fridreksbergi þann 22 dag Julii-mánadar, ár 1791.

**Med Vorri Konúnglegu Hendi og Signeti.**

***Christian R.***




C. v. Brandt.

Schow. Colbiörnsen. Reiersen.